*Arðrændir og kúgaðir allra landa - sameinist!*



# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

*Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)*

3.tbl. 5.árg. 6.febr.- 20.febr.1979. Verð kr. 200

**Engan afslátt á kröfunum!**

8

**Besta frystihús í heimi**

3

## Ísfirðingar blæða fyrir afglöp bæjarstjórnar

Fyrir mánuði síðan sagði Verkalýðsblaðið (1.tbl. 1979) þau tíðindi frá Ísafirði, að Hallgrímur Axelson verkfræðingur, forstöðumaður tæknideildar bæjarins, hefði verið hrakinn frá störfum. Það breytti engu, þó samstarfsmenn hans við áhaldahús bæjarins sendu bæjarstjórninni mótmælabréf, þar sem þeir báru Hallgrími mjög vel söguna og sögðu bæjarfélagið ekki mega við að missa svo góðan starfskraft.

Vestfirska fréttablaðið tók strax upp þráðinn. Auk þess að rekja meginatriði greinar Verkalýðsblaðsins hafði blaðið samband við bæjarstjórann og forseta bæjarstjórnar. Hvorugur þeirra hafði neitt um málið að segja. Ætli þeim finnist þeir vera komnir út á hálan ís?

4 5

# Þegar „verkalýðsflokkar" ráðast á verkafólk

Verkalýðsblaðið hefur nú undir höndum plagg, merkt "Trúnaðarmál". Það er eitt af vinnuplöggum efnahagsmálanefndar ríkisvaldsins - fjallar um tillögur til endurreisnar ísl. efnahagslífs (sjá myndina).

Af plagginu má ráða að stjórnarflokkarnir eru sammála í höfuðatriðum um verulega skerðingu á kjörum og verkfalls- og samningsrétti vinnandi fólks.

Alþýðubandalagið - býður best

Með vaxandi kreppuerfiðleikum íslenska auðvaldsins boðar AB fulla atvinnu,

2



Efnaha[illegible]smálanefnd

23.1.1979

DRÖG

TRÚNAÐARMÁL

Endurreisn íslensks efnahags

í anda frjálsræðis

Helstu markmið:

1. Dregið verði verulega úr verðbólgu í áföngum á næstu tveimur til þremur árum.
2. Verðmætasköpun sé aukin með auknum afköstum vinnuafls og hagkvæmari nýtingu fjármagns og auðlinda.
3. Jöfnuður og síðar greiðsluafgangur náist í viðskiptum við aðrar þjóðir og erlendar skuldir séu ekki auknar nema sem svarar nauðsynlegum bata gjaldeyrisstöðu á næstunni.
4. Atvinnuöryggi ríki um allt land en jafnframt dr[illegible] spennu, sem löngum hefur verið á v[illegible] stefnt að minnka yfi[illegible] inni h[illegible]

## Alþjóðagjaldeyrissjóðurinn og Ísland:

# „Svavar segir ekkert"

## — segir Elías Davíðsson

Sendimenn Alþjóðagjaldeyrissjóðsins, sem talinn er standa næst sjálfri hernaðarvél bandaríska risaveldisins í röð einstakra eininga alþjóðlegrar stjórnar auðvaldsheimsins, komu til Íslands í nóvember. Erindið þá, sem í hliðstæðum heimsóknum áður var að eiga viðræður við bankamenn og stjórnmálamenn hérlendis um efnahagsmál.

Það sem þessir útlendu sendimenn heimsauðvaldsins hafa að segja um efnahagsmál á Íslandi, er trúnaðarmál útvalins hóps manna. Elías Davíðsson, kerfisfræðingur, hefur lagt geysilega vinnu í rannsóknir á Alþjóða gjaldeyrissjóðnum, eðli hans og umsvifum, hér og annars staðar. Reglulegir lesendur VB minnast í því sambandi fróðlegs viðtals við. hann í 19. tbl. 1978 um sjóðinn og ítök hans í



Elías Davíðsson.

ísl. efnahagslífi. Eftir að Svavar Gestsson settist í stól viðskiptaráðherra, fór Elías á hans fund og óskaði eftir að fá að kynna sér innihald skýrslna sem sendimenn gjaldeyrissjóðsins hafa sett saman um ísl. efnahagslíf.

-Svavar tók erindinu vel, sagði Elías Davíðsson í samtali við VB. Hann talaði um að birta hugsanlega eitthvað úr plöggunum. En ekkert hefur komið út úr þessu. Ég hringdi í Svavar á "Beinni línu" útvarpsins og ítrekaði beiðnina og skrifaði grein í Þjóðviljann um sama efni. En Svavar hefur engu svarað, öðru en því að hér sé ekki um að ræða eiginlegar skýrslur, heldur "persónulega minnispunkta" sendimannanna og þá megi ekki birta.

Er þessi röksemd ráðherrans góð og gild, Elías?

-Nei, fjarri því. Ég gerði mér fyrirfram engar gyllivonir um að þátttaka Alþýðubandalagsins í ríkisstjórninni myndi verða til þess að auðvelda afhjúpun á ítökum Alþjóða gjaldeyrissjóðsins hér. Alþýðubandalagið vill frið við borgarastéttina, vill halda sættir við Framsókn og krata, en ekki gegna skyldum við fólkið.

7




Samstaðan með Kampútseu [illegible] Stuðningur bandarískrar alþýðu við þjóðir Indókína óx hröðum skrefum á meðan bandaríska heimsvaldastefnan herjaði þar. Nú vex stuðningurinn við Kampútseu. Myndin er frá mótmælastöðu sem mörg félagasamtök, þ.á.m. samtök Kampútseumanna í N-Ameríku stóru fyrir í New York 12.jan.s.l. (Mynd: The Call)

6

## Fjársvik leigumiðlana

Málefni leigjenda hafa nokkuð verið á döfinni undanfarið. Kemur aðallega til barátta Leigjendasamtakanna. Nú þessa dagana er verið að leggja fyrir Alþingi frumvarp um leiguhúsnæði og réttindi leigjenda. Frumvarp þetta var samið af nefnd, sem stofnuð var vegna krafna Leigjendasamtakanna um að þessum málum yrði komið í almennilegt horf. Í nefnd þessari áttu sæti Sigurður E. Guðmundsson, formaður, Ragnar Aðalsteinsson, hrl., lögmaður Leigjendasamtakanna, og Páll S.Pálsson frá Húseigendafélaginu. Verkalýðsblaðið hefur ekki séð nefndarálit þetta eða frumvarpið, en við höfum haft af því fregnir, að það sé mikil réttarbót fyrir leigjendur. Eins og ástandið er nú, eru engin lög til sem ná yfir leigu íbúðarhúsnæðis og réttindi leigjenda. Þetta hefur valdið margháttuðum skaða, og okur og alls kyns svik náð að dafna í skjóli þess. Þetta ástand hefur að sjálfsögðu bitnað verst á þeim sem minnst mega sín, þeim sem ekki hafa efni á að kaupa sér eigið húsnæði eða leggja út í að byggja, með öllum þeim vandamálum sem því fylgja. Allar úrbætur á þessu sviði eru því jákvæðar. Vissulega verður ekki allt okur og svindl kveðið niður með gerð lagagreina þar um, það hefur sýnt sig á öðrum sviðum, en með lögfestingu réttinda leigjenda öðlast leigjendur sterkt vopn í baráttu sinni við svindlara í hópi leigusala.

4 5

Áskrift greiðist á gíró nr. 12 200 - 9

VERKALÝÐS BLAÐIÐ



# Hver er afstaða verkalýðsforystunnar?

Í formála að riti sínu Heimsvaldastefnan æðsta stig auðvaldsins ritar Lenín eftirfarandi:

"Það er skiljanlegt að með þessum aukagróða er auðmennirnir öðlast fram yfir þann ágóða, sem þeir kreista út úr verkalýð síns eigin lands, geti þeir mútað verkalýðsleiðtogum og þeim hluta verkalýðs, sem er best settur. Og auðvaldið í "f◆ ıfaralöndunum" mútar þeim á útal vegu beint eða óbeint, opinskátt og í laumi. Þessi borgaralegi verkalýður.... er í raun erindrekar borgarastéttarinnar innan verkalýðshreyfingarinnar, handbendi atvinnurekenda, raunverulegir formælendur endurskoðunarstefnu og þjóðrembingsháttar."



Guðmundur J. og Þórir Daníelsson.

Verkalýðsforystan hefur gífurlega mikilvægu hlutverki að gegna fyrir borgarastéttina, m.a. vegna þess að hún beitir völdum sínum til að koma í veg fyrir sjálfstæðar aðgerðir launafólks til varnar kjörum sínum og réttindum, og til að sannfæra verkafólk um að kreppuráðstafanir auðvaldsins séu "nauðsynlegar vegna afkomu þjóðarbúsins" eða til að "takast megi að berja niður verðbólguna". Hlutverk verkalýðsleiðtoganna skýrist betur ef athuguð eru nokkur dæmi um framgöngu þeirra hér á landi.

### VAR KRAFAN "SAMNINGANA Í GILDI" KRAFA VERKALÝÐS - FORYSTUNNAR?

Í fyrra var kröfunni "Samningana í gildi" hampað nokkuð af forystu stærstu launþegasamtakanna. Að vísu fór ekki mikið fyrir baráttuvilja til að ná þeirri kröfu fram, en þó voru aðgerðirnar 1. og 2.mars liður í þeirri stefnu. Það hefur vakið eftirtekt að síðan í haust virðast forystumennirnir hafa "gleymt" þessari kröfu og ganga jafnvel svo langt að fagna þegar ríkisvaldið brýtur gerða samninga með afnámi vísitölubóta, samanber yfirlýsingar stjórnar Verkamannasambandsins vegna 1.des. laganna. Hvernig skyldi standa á þessu ? Hafa mennirnir skipt um skoðun - eða hvað? Þessi afstaða þeirra skilst nú aðeins ef litið er á það hvers vegna verkalýðsforystan studdi kröfuna "Samningana í gildi" a.m.k. í orði fyrir tæpu ári síðan. Annars vegar má skýra það með því að þeir létu undan víðtækum kröfum fólksins og óánægju vegna árása ríkisvaldsins. Þess vegna fóru þeir út í sýndarbaráttu til að lægja óánægjuöldurnar. Önnur ástæða var pólitískt ástand í landinu á þeim tíma. Fyrir dyrum voru tvennar kosningar og þeir flokkar, sem hafa mest ítök innan verkalýðsforystunnar, Alþýðubandalagið og Alþýðuflokkur tóku upp slagorðið: "Kjósum ekki kaupránsflokkana" til að nýta óánægju alþýðunnar sér til framdráttar í kosningunum. Það þjónaði því vel hagsmunum þessara flokka að veifa kröfunni í kosningabaráttunni, jafnframt því sem tryggt væri að hún fengi ekki að heyrast eftir að flokkarnir hefðu krækt sér í ráðherrastóla.

### "SAMRÁÐIN" VIÐ RÍKISVALDIÐ

Þegar "vinstri" stjórnin tók við í haust var það m.a. vegna mjög eindreginna óska forystumanna í Verkamannasambandinu (Guðm. J og Karls Steinars). Efst á verkefnaskránni var að haft skyldi samráð við "aðila vinnumarkaðarins" og einkum samtök launafólks. Afrakstur þessara samráða hefur komið fram í öllum stærstu samtökum launafólks.

ASÍ-forystan, sem fyrir kosningar hrópaði "Samningana í gildi" - hvatti nú í haust aðildarfélögin til að framlengja samninga sína til 1. des.1979 svo stjórnin fengi vinnufrið.

Kjör sjómanna hafa verið rýrð mikið að undanförnu, samt lét "fulltrúi" þeirra í Verðlagsráði, alþýðubandalagsmaðurinn Ingólfur Ingólfsson, sig hafa það að samþykkja enn frekari skerðingu við síðustu fiskverðsákvörðun. Fékk Ingólfur dyggan stuðning frá forseta sjómannasambansins, Óskari Vigfússyni. Óskar hafði í orði samþykkt kröfur þorra sjómanna um harðar aðgerðir gegn árásum ríkisvaldsins, en síðan dró hann allar fyrri yfirlýsingar sínar til baka og hvatti sjómenn til að una glaða við sitt.

Forysta BSRB hefur heldur ekki setið auðum höndum. Nú stendur hún í því að hvetja opinbera starfsmenn til að taka "tilboði" ríkisstjórnarinnar. Það felur í sér að umsamdar kauphækkanir falli niður, gegn því að opinberir starfsmenn fái fram sjálfsagða rýmkun á samningsréttinum. Í tengslum við kjaraskerðinguna hefur forystan (bæði stuðningsmenn og andstæðingar núverandi ríkisstjórnar), gengið fram fyrir skjöldu til að fá lögfesta enn frekari miðstýringu í samningagerð og minnkað sjálfstæði einstakra aðildarfélaga BSRB.

### BARÁTTUSTEFNU GEGN STÉTTASAMVINNU.

Þau dæmi, sem rakin hafa verið hér að framan eru aðeins brot af þeim dæmum, sem nefna má um slíka starfshætti verkalýðsforystunnar. Sameiginlegt einkenni á áróðri hennar er að það þýði ekkert fyrir einstök félög eða litla hópa að fara í verkfall eða aðrar aðgerðir. Með því að fara samningaleiðina við vinveitt ríkisvald náum við frekar fram kröfum okkar en ef blásið er í herlúðra. - Reynslan sýnir þó allt annað og staðfestir að verkalýðsforystan gengur aðeins erinda atvinnurekenda og ríkisvalds þeirra. Baráttan gegn svikum forystunnar verður því best háð með því að afhjúpa falsanir hennar í verki.

Ýmsir hópar verkafólks hafa einnig orðið til að gera það og má í því sambandi minna á nýlegt dæmi þar sem er verkfall ófaglærðs starfsfólks sjúkrahússins á Akranesi. Á meðan forystan í Sókn hér í Reykjavík beitti sér gegn allri baráttu og knúði í gegn lélega samninga, sýndi starfsfólkið að baráttustefnan ein getur fært okkur sigra.



# Áskrifta- og lausasölu herferð lokið

1.jan. sl. lauk söfnun áskrifenda og lausasöluherferð Verkalýðsblaðsins.

Alls tókst að safna 76% af þeim fjölda áskrifta sem ákveðinn var sem takmark. Árangur var öðru hvoru megin við 50% nema á Suðurlandi og meðal Íslendinga erlendis. Á Suðurlandi fjórfölduðu velunnarar blaðsins tölu þá sem þeir skyldu miða við.

Lausasölu tókst að auka um og yfir það mark sem sett var, nema fyrsta og síðasta tölublaðs meðan á herferðinni stóð. Sýnir árangurinn að það er auðvelt að auka útbreiðslu blaðsins samhliða úrbótum á útliti og innihaldi.

Árangur útbreiðsluaðgerðanna verður að meta rétt í meðallagi. Meginvillurnar sem stóður í vegi fyrir betri starfsárangri eru þessar:

1. Samtökin unnu samtímis að of mörgum verkefnum.
2. Samtökin treystu ekki nægilega á stuðningsmenn.
3. Nefnd sú sem stýrði söfnuninni og söluherferðinni veitti ekki næga forystu, skipulagði ofan frá, án virks eftirlits og samráðs og dró ekki saman reynslu til að bæta úr þegar verkefnið var u.þ.b. hálfunnið.

Pólitísk undirrót þessa er slök fjöldastefna og ónógur skilningur á því hvernig skipulagsstarf kommúnista skuli háttað.

Fyrirhuguð áskrifta- og fjársöfnun VB í tengslum við vikuútgáfuna verður undirbúin með hliðsjón af fenginni reynslu. Hún hefst undir vorið. Þangað til hvetjum við félaga EIK(m-l) og stuðningsmenn að selja blaðið ötullega og safna áskriftum jafnt og þétt.

Undirbúningsnefnd '78

# „verkalýðs."

frh.af forsíðu

verndun kaupmáttar ofl. Af tillögum AB úr Þjóðviljanum og ofangreindu plaggi sést að meginstefna flokksins er sú að "bæta kjörin eftir því sem efnahagsástæður leyfa" - þ.e. eftir getu auðvaldsins og afkomu!

Þetta er tekið beint upp úr óskalista Vinnuveitendasambandsins.

Alþýðubandalagið vill útvega a.m.k. 53 milljarða kr. í þessu skyni. Til þess á ríkisvaldið að stýra fjárfestingum arðræningjanna, svo á að auka framleiðni (afköst, gæði ofl.) um 10-15%, auka fyrirgreiðslu til auðvaldsins, styrkja samvinnu verkalýðsins og auðherranna og loks stuðla að einokun með samruna fyrirtækja.

Og þessar björgunaraðgerðir eiga að færa fólkinu kjarabætur, tryggja atvinnu og trúlega færa okkur skrefi nær sósíalismanum. Með 4 blaðsíðum í Þjóðviljanum og stjórnunarstörfum í ríkisvaldi yfirstéttarinnar vill AB gera kapítalismann mannúðlegan og snúa áratuga þróun við.

Þessi andverkalýðssinnaða stefna verður enn berari að innihaldi sínu þegar þess er gætt að samdráttur er á flestum sviðum í markaðslöndum Íslands og hér innanlands þannig að aukin framleiðsla selst illa eða ekki!

AB veifar sparnaðarhnífi yfir ríkisstofnunum. Spara á af almennu rekstrarfé. Það hlýtur að bitna á starfsfólki, og á þjónustunni við almenning.

Einu atriði tillagna AB sem kunna að vera jákvæð, varða einföldun á olíuinnflutningi, banka- og tryggingakerfi og skattheimtu, með loforði um léttari skattbyrðar, sem Alþýðubandalagið á að vísu eftir að efna.

### Alþýðuflokkurinn - deilir þjónshlutverkinu með AB

Alþýðuflokkurinn vill skera enn frekar niður rekstrarútgjöld ríkisins og fjárfestingar en orðið er. Samtímis á að auka aðstoðina við "atvinnuvegina". Þetta getur aðeins táknað að þjónustu- og félagsmálaframlög verði skert.

Bæði AB og Alþýðuflokkurinn vilja miða verðbætur við viðskiptakjör (afkomu auðvaldsins) eða jafnvel verðhækkanir á erlendum vörum. Í þessu felst gróf árás á helstu trygginguna fyrir því að laun fylgi verðlaginu. Og Alþýðuflokkurinn gengur svo langt að heimta lögbindingu kaups til lengri tíma. Með þessu er verið að brjóta niður lögbundinn samningsrétt meðan ný og verri vinnulöggjöf er undirbúin til samþykktar á Alþingi. Allt útlit er fyrir að bæði Alþýðubandalagið og Framsóknarflokkurinn gangist inn á lögbindinguna.

Með efnahagstillögum sínum sýna "verkalýðsflokkarnir" tveir raunverulegt andlit sitt.

# EIK (m-l) berst styrktarfé

EIK(m-l) hvöttu í síðasta tbl. Verkalýðsblaðsins til þess að vildarmenn samtakanna styrktu þau fjárhagslega. Var m.a. opnaður gíróreikningur til slíkra nota.

Dálítið fé hefur þegar borist okkur inn á reikninginn. Þakklæti sýna samtökin best með því að nota féð til góðra verka.

Við viljum þó sérstaklega geta 15.000 króna sem hjón í Reykjavík afhentu samtökunum á umræðufundinum um Kampútseu 18.jan. sl. Með því greiddu þau raunar fundarhúsnæðið það kvöld.

Með hjálp sem þessari ná samtökin lengra en ella. Það á auðvitað líka við um hvaða upphæð sem er. Stuðningsmenn - lesendur, íhugið hvort þið séuð aflögufær!

Munið gírónúmerið - 57070-2

# Háskóla

frh.af bls.3.

námsmanna í lánamálunum er brýn nauðsyn. Flokksbönd og ólíkar pólitískar skoðanir mega ekki vera því til fyrirstöðu. Án samfylkingar verður engu af okkar málum komið til leiðar. Hlutverk vinstri manna er að efla slíka samfylkingu.

Að lokinni stefnuskrárráðstefnu vinstri manna í fyrra lýstu stuðningsmenn EIK(m-l) því yfir að þótt ekki næðist samstaða þá skyldi aftur látið reyna á hvort unnt væri að ná samstöðu um baráttustefnu í hagsmunamálum námsmanna. Megni næsta stefnuskrárráðstefna vinstri manna að draga rétta lærdóma af baráttu síðustu mánaða ætti slík samstaða að geta náðst.

EIK(m-l) í Háskólanum



Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum

## Besta frystihús í heimi

# Hertar refsingar fyrir „galla“ í flökum

Á Grandanum í Reykjavík er að finna splunkunýtt frystihús Sölumiðstöðvar hraðfrystihúsanna, Ísbjörninn. Þetta nýja hús með gömlu nafni var opnað um síðustu áramót og dagblöðin kölluðu það "fínasta frystihús í heimi" í fyrirsögnum. Og satt er það, fínheitin eru mikil og fljótt á litið virðist aðbúnaður og vinnuaðstaða óvenjulega góð. Verkalýðsblaðinu barst til eyrna, að hjá Ísbirninum hefði verið tekið upp nýtt bónuskerfi og skiptar skoðanir um ágæti þess. Því var ákveðið að skeiða í Ísbjörninn og reyna sanngildi sögusagnanna milliliðalaust.

Við komum á staðinn um kl. 2 eftir hádegi, einmitt þegar konurnar í salnum voru að líta upp úr ljósaborðunum til að taka sér nokkurra mínútna "pásu". Einstaka kona hélt þó áfram vinnu sinni og hirti ekki um "pásuna". Við fórum inn í salinn og röbbuðum við sumar þeirra, eða þar til ungur og metnaðargjarn verkstjóri með Fiskvinnsluskólasvip vatt sér að okkur og fleygði okkur á dyr. Lýsti hann því yfir að við værum ekki hafandi í nálægð matvæla. Frammi á göngum gátum við þó skotið orði og orði að fleiri konum.

Eftir því sem við komumst næst, hefur verið tekið upp nýtt bónuskerfi, að því leyti að refsingar fyrir "galla" (orma og bein) í flökunum hafa verið hertar og gerðar nánast ofurmannlegar. Nú má ekki finnast nema 1 "galli" í 5 lbs. pakkningu yfir allan daginn, en séu "gallar" fleiri, þá missir viðkomandi bónusinn uns "gallar" í vinnslunni frá borðinu eru einn eða enginn að jafnaði! Ef bein er undir 3 sm að lengd, er það talinn 1 "galli", en 2 "gallar" ef beinið er lengra! Samkvæmt upplýsingum sem við fengum í öðrum frystihúsum í Reykjavík, eru þessar refsingar miklum mun harðari en þar gerist.

Þá heyrðist kvartað yfir að ljósaborðin í fína Ísbjarnarhúsinu væru lítil og tíkarleg. Þau eru svo lítil, að ef á þeim liggja flök í stærra lagi, þá þarf að flytja þau til 2svar og 3svar á borðinu til að fá ljósið alls staðar í gegn.



Frystihús Ísbjarnarins.(Mynd:Verkalýðsblaðið.)

Þegar við fórum út, var okkur gengið að húsinu þar sem opnar voru dyr inn í vinnslusalinn. Ljósmyndari mundaði græjurnar og "skaut" nokkrum sinnum yfir salinn inn um gættina. Það skipti engum togum, að um leið og yfirmenn í húsinu urðu þess varir, komu 2 þéttvaxnir menn á hlaupum og hröktu "þennan andskotans mann" út í hríðarmugguna. Við máttum ekki fá myndir af flottasta frystihúsi í heimi.

VB mun reyna að afla nánari upplýsinga um bónuskerfið í Ísbirninum. Sakir þess að þetta mál kom upp rétt áður en skilafrestur í þetta tbl. rann út, vannst ekki tími til að gera betur í þetta sinn.

## Hvar á að spara?

Á "beinni línu" í Útvarpinu um daginn nefndi Tómas Árnason menntakerfið sem einn þeirra þátta, þar sem draga mætti úr ríkisútgjöldum. Er sú yfirlýsing hans reyndar í fullu samræmi við þá stefnu, sem boðuð er í fjárlögum "vinstri" stjórnarinnar. En hvernig á þessi sparnaður þá að koma fram? -Á hverjum mun hann bitna?

Í Fjölbrautarskólanum í Breiðholti er þegar komin fram vísbending um það. Eins og kunnugt er, er skólinn ungur og húsnæði hans mjög skorið við nögl. Starfsaðstaða nemenda og kennara er þar vægast sagt léleg. Þegar skipt var í áfanga eftir haustönn, tóku yfirvöld skólans ómakið af ríkisvaldinu, og gengu út frá því þegar þau skiptu í hópa, að nemendum myndi fækka allverulega. Þess vegna voru nemendahóparnir hafðir eins stórir og frekast var unnt. Með þessu er skapað mjög hættulegt fordæmi, þar sem beinlínis er stefnt að niðurskurði - á nemendum. Kennslan verður óhjákvæmilega lélegri og starfsálag á kennara eykst til muna.

Ef yfirvöldum skólans tekst ekki að hrekja nemendur frá námi með þessum aðgerðum mun sparnaður þeirra að vísu verða takmarkaður, vegna ákvæða um nemendafjölda í kjarasamningum kennara. En það má telja fullvíst, að svipuðum aðgerðum verður reynt að beita á næsta starfsári t.d. í öllum grunnskólunum, þ.e. að auka vinnuálag og stækka bekki. Bæði nemendur og kennarar verða að standa einhuga gegn öllum slíkum fyrirætlunum stjórnvalda. Það ræðst af baráttuvilja okkar, hvort þeim tekst að hrinda þeim í framkvæmd.

Fréttaritari

# Um samfylkingu vinstri manna í Háskóla Íslands

Um allmargra ára skeið hafa vinstri menn í HÍ haft með sér samstarf um framboð til Stúdentaráðskosninga. Andstaða gegn félagi hægri stúdenta, Vöku, hefur átt veigamikinn þátt í að þjappa hvers konar vinstri sinnum saman, svo og óljós samstaða um einhvers konar sósíalískan félagshyggjugrundvöll.

Á stefnuskrárráðstefnu vinstri manna fyrir stúdentaráðskosningarnar 1978 gagnrýndu stuðningsmenn EIK(m-l) í Háskólanum, sem ráðstefnuna sátu, forystu vinstri manna fyrir óljósa afstöðu til ríkisvaldsins. Við deildum og á forystuna fyrir að treysta á "vinveitta afstöðu ríkisvaldsins" undir stjórn "verkalýðsflokkanna". Við sögðum að ekki væri hægt að byggja upp nothæfa baráttustefnu í hagsmunamálum námsmanna ef þvílíkar hugmyndir væru hafðar að leiðarljósi. Forysta vinstri manna vísaði þessari gagnrýni á bug. Einstaklingar innan hennar skutu sér á bak við þá"kenningu" að EIK(m-l) vildu koma marx-lenínískri skilgreiningu inn í stefnuskrá vinstri manna. Það var að sjálfsögðu rangt. Stuðningsmenn EIK(m-l) vildu einungis að skýrt kæmi fram í stefnugrundvellinum að ríkisvaldið væri höfuðandstæðingur námsmanna, óháð því hverjir sætu þar í valdastólum hverju sinni. Makk við "hagstæða" þingmenn mætti undir engum kringumstæðum verða höfuðþátturinn í baráttu námsmanna.

Forystumenn vinstri manna höfnuðu þessum málflutningi á stefnuskrárráðstefnunni í fyrra,en ætla má að viðhorfin hafi breyst síðan þar sem gangur mála í vetur hefur sannað mál okkar. Einn af "allra -hagstæðustu" þingmönnunum er nefnilega orðinn menntamálaráðherra. Nú skyldum við ætla að hagur námsmanna hefði vænkast með valdatöku Ragnars Arnalds. En því er ekki að heilsa, eins og reyndar námsmenn vita. Nú á meira að segja að vega að þeim kjörum sem við höfum áunnið okkur með margra ára baráttu, samanber t.d. átökin í vetur þegar lækka átti námslánahlutfallið úr 85% fjárþarfar umfram vinnutekjur niður í aðeins 70% fjárþarfarinnar. Sér einhver veigamikinn mun á framkomu Ragnars Arnalds og Vilhjálms Hjálmarssonar ?

Af eðlilegum ástæðum hafa þeir námsmenn, sem bundu vonir við Alþýðubandalagið, orðið fyrir verulegum vonbrigðum með gang mála sl. mánuði. Staðan hefur breyst, og okkur virðist að forysta vinstri manna hafi dregið rétta lærdóma af því. Undanfarna mánuði hefur stefna hennar verið baráttusinnuð í meginatriðum. Það sést m.a. af velútfærðri dreifiritaherferð í desember, fundinum með þingmönnum í Stúdentaheimilinu í desember og þingpallaför rétt fyrir jól. Við teljum einnig að fundir SHÍ með fulltrúum deildafélaganna hafi verið skref fram á við enda þótt þeir leysi engan veginn þann vanda að virkja fólk til baráttu.

Svo virðist sem svik "verkalýðsflokkanna" hafi skapað aukna möguleika á því að vinstri mönnum takist að marka framsýnni og baráttusinnaðri stefnu í lánamálum námsmanna en hingað til.

Félagar og stuðningsmenn EIK(m-l) í HÍ hafa fullan hug á því að taka þátt í mótun slíkrar stefnu. Við bendum á að órofa samstaða allra

frh.á bls.2.

# Nýtt félag gæti þokað BHM

Enn er engin hreyfing innan launamálaráðs BHM í þá átt að stuðla að aðgerðum sem ýta á eftir kröfum BHM í meðförum Kjaradóms. Ein helsta krafan er afnám vísitöluþaksins á launum sem nú eru rúml. 270 þús. kr. á mánuði.

Þessi seinagangur ræðst sumpart af áhuga flokksmanna Alþýðubandalagsins og Alþýðuflokksins á "vinnufriði" handa ríkisstjórninni til að móta kjararánstillögur sínar. Hagur flests launafólks í BHM felst hvorki í bið eftir ákvörðunum ríkisvaldsins né í því að sætta sig við samningsbrot og kauprán.

20. jan.s.l. sameiðuðust um 700 kennarar í framhaldsskólum í eittt hagsmunafélag - Hið íslenska kennarafélag -. Þorri þeirra hefur háskólamenntun og kennir ma. í menntaskólum, fjölbrautarskólum og í framhaldsdeildum grunnskóla. Er sameiningin jákvætt skref til enn frekari samvinnu kennara. Stofnfundinn sóttu um 60 kennarar. Voru þar samþykkt lög og stjórn kosin undir forsæti Jóns Hnefils Aðalsteinssonar.

Í lögum HÍSK kveður svo á um að aðrir starfsmenn skólanna en kennarar geti öðlast félagsréttindi og að stundakennarar hafi aukaaðild að félaginu. Hins vegar var ranglega felld tillaga Ara T. Guðmundssonar um að atvinnulausum háskólamönnum, sem ekki hafa kennt, en leita eftir kennslu, skuli félagsaðild heimil. Það er sjálfsagt réttindamál að HÍSK sé baráttutæki atvinnulausra háskólamanna með kennsluréttindi í vaxandi atvinnuleysi.

Fimm kennarar úr Menntaskólanum við Sund stóðu fyrir tillögu um að félagsstjórnin héldi sem skjótast félagsfundi um kjaramál og aðgerðir í þeim. Tilgangurinn var sá að ýta við félagsmönnum og hafa ráðrúm til skipulagningar baráttu gegn ríkisvaldinu.

Tillagan var samþykkt með þorra atkvæða en gleymdist á fyrsta fundi hinnar nýju stjórnar!

Svona vinnubrögð, meðan á kapphlaupi við tímann og fjandsamlegan Kjaradóm stendur, eru andstæð hag okkar.

Kjaradómur fellur 13. feb. Fyrir þann tíma geta kennarar í BHM skipulagt baráttu og kannað aðstæður. Það er einörð krafa að stjórn HÍSK láti hendur standa fram úr ermum.

Fréttaritari.

STALDRAÐ VIÐ

# Helv . . . . skattaframtalið

30. janúar – einn dagur eftir af skilafresti skattaframtals. Engin grið gefin. Við hjónin verðum að fleygja frá okkur öllum öðrum verkefnum, skrópa á áríðandi fundi, slökkva á sjónvarpinu og ég verð að sleppa undirbúningi fyrir kennsluna á morgun. Skattaframtalið krefst alls af okkur í kvöld. Nú er komið að því að sjá svart á hvítu að hér sé nú við völd "ríkisstjórn alþýðunnar". Ríkisstjórn sem ver fátæklinga og launafólk holskeflum á borð við skattaáþján og aðra kjararýrnun. En launin okkar voru nú greinilega farin að missa talsvert af gildi sínu undir lok ársins með lögum og bráðabirgðalögum, vísitöluþökum og efnahagsráðstöfunum til hjöðnunar verðbólgu. Við eigum því svo sem ekki von á því að skattarnir verði réttlátari í ár en í fyrra.

Klukkan er átta. Við erum búin að tína fram allar þær nótur og launamiða sem ekki hafa týnst og raða þeim í kringum okkur á eldhúsborðið. Ég er búinn að bretta upp skyrtuermarnar og ná mér í penna. Að ógleymdum leiðbeiningum ríkisskattstjóra í sérstökum blaðauka Dagblaðsins. Við hefjumst því handa.

Á fyrstu síðu framtalsins gengur allt þolanlega, þar til kemur að liðnum "Greidd húsaleiga". Til hvers á að gefa hana upp ? Ekki er hún færð okkur til frádráttar af nýju valdhöfunum, eða hvað ? Nei. Það kemur í ljós að svo er ekki.

Klukkan er níu. Eignadálkurinn á bls. 2 veldur ekki öðrum vandræðum en þeim, að þar komast ekki fyrir þær upplýsingar sem þar eiga að vera, nefnilega um íbúðina sem við keyptum á árinu. Við þurfum því að búa til sérstakt "fylgiskjal". Eftir að við höfum eytt nærri klukkutíma í heilabrot um hvernig eigi að setja það upp og fletta upp í leiðbeiningunum án árangurs er það tilbúið.

Þá eru tíufréttirnar í útvarpinu og nýr kaffibolli, áður en ráðist er á það sem mikilvægast er, "Tekjur árið 1978".

Við byrjum á því að gera þá stórmerku uppgötvun að auk þess sem við greiddum 40 þús. kr. leigu á mánuði hálft árið, þá greiddum við sjálfum okkur 15 þús. kr. leigu á mánuði hinn helminginn af árinu, nefnilega í nýju íbúðinni. Það er svo sem ekki ósanngjarnt, að við (íbúar) greiðum eitthvað fyrir afnot af þessari gömlu, notalegu íbúð, en hins vegar er okkur hulin ráðgáta, hvað við (eigendur) höfum gert við þessar húsaleigutekjur!

Laun greidd í peningum eru næst. Þar fyllum við út í samræmi við launamiða og ekkert umfram það. Við förum ekki ótilneydd að gefa upp aukavinnuna í fyrravetur eða það sem ég hjálpaði frænda mínum í haust. Sem betur fer höfum við ekki svarta samvisku þess vegna. Ætli ríkið hafi ekki stolið öðru eins af okkur! Hvað með dráttarvextina upp á 30 þúsund kall vegna þess að við greiddum skattana okkar upp á þrem síðustu mánuðum ársins í stað fimm ?

Hvað í ósköpunum ! Klukkan orðin hálf tólf ! Og við rétt að byrja á frádrættinum ! Við verðum að fara að setja kraft í þetta. Nóg er að vera illa undirbúinnn. þótt maður mæti ekki svefnlaus líka í vinnuna.

Fyrst er kaflinn "Breytingar til lækkunar á framtöldum tekjum". Þar vekur athygli okkar á eyðublaðinu liður 6, "Laun undanþegin skv. 6. gr. og H-lið 10. gr. skattalaganna". Ætli þýðingarlaunin mín falli þar undir ? Eða laun konunnar minnar vegna nefndarstarfa ? Best að gá í leiðbeiningarnar : "Hér skal færa sömu upphæð launa og talin hafa verið til tekna í tölulið 6, III, falli launin undir ákvæði 6. gr. skattalaganna um undanþágu frá tekjuskatti eða undir ákvæði H-liðar 10. gr. skattalaganna". Kalla þessir menn þetta "leiðbeiningar" ? Ætlast þessir andsk. til að maður hafi lagasafnið við hliðina á sér á eldhúsborðinu, eða hvað ?

Aðeins neðar á blaðinu er liðurinn "Annar frádráttur". Þar stendur í leiðbeiningunum að gjafir til menningarmála séu frádráttarbærar. Við keyptum miða í happadrætti Alþýðumenningar í ár og lögðum peninga í Október-söfnunina. En við erum svo viss um að ekki þýði að telja það fram, að við sleppum því.

Miðnætti. Í leiðbeiningunum segir að hjón skuli taka fram sérstaklega, ef þau vilji láta skattleggja sig í tvennu lagi. Við viljum það auðvitað ekki, nema skattarnir lækki út á það. Við verðum því að reyna að reikna út skattana okkar. Leiðbeiningarnar kenna okkur það. Eignaskatti og eignaútsvari getum við sleppt, en tekjuskatt og tekjuútsvar reiknum við út. Þar kemur í ljós að það borgar sig fyrir okkur að telja fram saman því að þá dragast 50% launa konu frá. Við erum ekki það tekjuhá, að við komumst upp í "lúxusskatt", þótt við teljum fram saman. Svo skiptir líka máli í okkar tilviki, að konan mín hefur **hærri laun en ég.** Sjúkratryggingargjald þurfum við líka að borga, og við reiknum það út. Svo kemur eitthvað sem heitir "takmörkunarútsvar", sem DB segir að fæstir borgi. Við gætum verið í hópi þessara fæstu, svo að við flettum upp í leiðbeiningunum. Þar getur að líta eina verstu setningu sem ég hef séð, síðan ég hætti að lesa Lögbirtingarblaðið : "Í öðru lagi ..... er svonefnt takmörkunarútsvar sem felst í því að ríkissjóður greiðir ekki hærri upphæð af útsvari gjaldanda en sem nemur þeirri upphæð sem útsvarið hefði numið ef útsvar hefði verið lækkað um hundraðshluta útsvars í viðkomandi sveitarfélagi af : a) bótum skv. II og IV. kafla laga um almannatryggingar, b) námsfrádrætti er skattstjóri ákvarðar vegna þeirra sem stunda nám í amk. sex mánuði á árinu, c) lækkun skattgjaldstekna er skattstjóri ákvarðar um ívilnun í

frh. á bls.7.

«Konur bera uppi

# Konur í

Í hvatningu til kínverskra kvenna segir Mao Tse-tung: "Til þess að reisa mikið sósíalískt þjóðfélag af grunni er ákaflega mikilvægt að fá allan þorra kvenna til þátttöku í framleiðslunni. Karlar og konur verða að fá sömu laun fyrir sömu störf. Raunverulegu jafnrétti kynjanna er ekki unnt að koma í framkvæmd nema í sjálfri framvindu hinnar sósíalísku umbreytingar þjóðfélagsins í heild!" (Úr ritgerð Maos "Konur hafa haldið til vígstöðva vinnunnar" 1955).

Þessi stefna er lögfest í kínversku stjórnarskránni og er ekki aðeins orðin tóm. Raunveruleikinn í Kína sýnir að þessu miðar jafnt og þétt áfram. Kínverjar hafa ekki byggt sósíalismann til fulls. Þeir ætla að breyta Kína í nútíma iðnaðarþjóðfélag fyrir árið 2000 – það hlýtur að teljast stór áfangi til að tryggja jafnrétti karla og kvenna í Kína.

## HVE LANGT HEFUR KÍNVERJUM MIÐAÐ?

Kína var hálf-lénskt nýlenduþjóðfélag þar sem meirihluti kvenna tilheyrði hinni ánauðugu bændastétt, eða voru vinnudýr erlendra auðmanna. Að auki kenndu trúarbrögð og hugmyndafræði lénsveldisins að konan væri óæðri vera. Þannig var ástandið alla jafna fram undir þjóðfélagsbyltinguna sem stóð frá 1911 – 1949. Eftir það hófust róttækar breytingar á stöðu kínverskra kvenna. Sem dæmi um þátttöku kvenna í samfélagslegu starfi má nefna eftirfarandi: Í Shanghaí voru 180 þús. konur í iðnaði fyrir 1949 – nú eru þær 800 þús. Í Tientsien 20 þús. – nú 500 þús. Í Peking einni eru um 700 þús. verkakonur, og eru þær 40% vinnuafls í iðnaði borgarinnar. Í öðrum greinum, svo sem heilsugæslu er hlutfall kvenna 60–70%. Í Wuhan eru 30% vinnuafls í



járniðnaði konur og í byggingarvinnu 26%. Konur vinna við flug og olíuborun í vaxandi mæli. Annað dæmi um þátttöku kvenna í samfélagslegu starfi eru stjórnunarstörfin. Á 5. þjóðþinginu 1977 voru 21,2% fulltrúa konur eða 741. 3 varaformenn fastanefndar þingsins eru konur. Í ríkisráði er 1 varaforsætisráðherra kona, 12 varaformenn og formenn ýmissa deilda. Í 17 af 30 héraðs- og svæðisráðum eru konur í forsæti. Formaður vefnaðariðnaðarráðuneytisins er kona, 12% miðstjórnarmanna eru konur og ein þeirra situr í æðstu forystu þ.e. framkvæmdarnefnd miðstjórnar. Svona mætti lengi telja.

## VIRK JAFNRÉTTISSTEFNA

Hvernig er reynt að tryggja möguleika kvenna til menntunar, vinnu, félags- og stjórnunarstarfa?

1. Næg atvinna er fyrir hendi – uppsagnir kvenna óheimilar eins og karla.
2. Ekki eru sérstök verkalýðsfélög **kvenna, heldur**

## Félagsmálastofnunin Breiðholti:

# Alþýðubandalagið deili

Deilur "vinstri" meirihlutans í borgarstjórn undir forystu Alþýðubandalagsins við starfsfólk í Breiðholtsútibúi Félagsmálastofnunar Reykjavíkur hafa verið umræðuefni manna á milli að undanförnu. Er þar fyrst að nefna að 8. nóv. sl. fór starfsfólkið í eins dags útborgunarverkfall vegna sífellds dráttar á útvegun fjár til að greiða út til skjólstæðinga stofnunarinnar styrki og lán, sem búið var að úthluta þeim. Það er eftirtektarvert, að þarna er Alþýðubandalagið ekki aðeins að deila við starfsfólk um kjör þess og vinnuaðstöðu, eins og annars staðar hefur viljað koma fyrir, heldur er forysta þess beinlínis að ráðast á kjör þess fólks í borginni, sem minnsta möguleika hefur til að bera hönd fyrir höfuð sér, og sem verst kjör hefur allra. Barátta starfsfólksins hefur hins vegar tekið mið af því að reyna að verja hagsmuni þessa fólks fyrir skilningsvana peningavaldi borgarinnar. Hjördís Hjartardóttir, félagsráðgjafi í Breiðholti, skrifaði um þetta beitta grein í Þjóðviljann fyrir skömmu, og einnig hefur starfsfólkið í sameiningu skrifað borgarstjórnarmeirihlutanum vel orðað og hreinskilið bréf, sem birst hefur í amk. tveim dagblöðum og vakið mikla athygli. En ennþá meiri eftirtekt hefur þó yfirklór Guðrúnar Helgadóttur, borgarfulltrúa Alþýðubandalagsins, vakið. Yfirklór er rétta orðið, og það verður best rökstutt með því að vitna í grein hennar í blaði sínu:

## "VESALINGS VINSTRI MENN"

"Fólk þraukar möglunarlaust hið ótrúlegasta undir stjórn afturhaldsmanna af öllu tagi, en um leið og einhverjir vesalings sósíalistar komast til áhrifa skal allt snúast til betri vegar og það strax. Vinstri mönnum eru aldrei nein grið gefin."

## "ÍHALDINU AÐ KENNA"

"Nærtækasta skýringin er sú, að á fjárhagsáætlun Sjálfstæðisflokksins fyrir árið 1978 var ekki veitt nær því nóg fé til þessarar þjónustu, enda fór Félagsmálastofnun verulega fram úr henni á árinu."

## "EMBÆTTISMENNIRNIR ERU Á MÓTI OKKUR"

"Þeir (þ.e. Sjálfstæðis-

## hálfan himininn»

(Maó Tsetúng)

# Kína

kvennanefndir á vinnustöðunum. Verkefni þeirra eru að auka þekkingu kvenna, skipuleggja fjöldastarf, pólitískt nám, tæknimenntun o.fl um fyrst og fremst, vinna yfirvöld, kvennanefndir og kvennahreyfingin markvisst að upprætingu fordóma karlanna gagnvart konum. Arfleifð gamla þjóðfélagsins er sterk.

KVENNAHREYFING KÍNVERSKA ALÞÝÐULÝÐVELDISINS (KKA)

Meðvituð barátta fyrir frelsun konunnar hófst með stofnun og starfi Kommúnistaflokks Kína (KFK) á 3ja tug aldarinnar.

Konur urðu mjög snemma virkar í vopnuðu baráttunni,m.a. voru mjög margar konur í Göngunni miklu. Upp úr Kvenfélagasambandi KFK var síðan stofnuð kvennahreyfing KKA, sem hélt sitt fyrsta þing árið 1949. KKA var breytt í fjöldasamtök sem störfuðu í borgum,bæjum,kommúnum og öllum héruðum fram að menningarbyltingunni 1966–68. Þá réðst Lin Píaó og U.M.K. ásamt fylgismönnum á allt starf og árangur kvennahreyfingarinnar og tókst að halda niðri öllu starfi fram til 1978. Þetta leiddi til þess að barátta kvenna varð ekki eins árangursrík. Eftir fall "fjórmenninganna" hófu konur aftur fyrri baráttustefnu til vegs. KKA var endurreist með 4. þingi sínu í sept.1978. Megin viðfangsefni KKA er að gera Kína að nútíma sósíalísku iðnríki,enda bera konur uppi hálfan himininn í Kína eins og öðrum löndum, og án þeirra væri ekkert sósíalískt Kína til.

3. Tryggt er að konur fái að vinna öll störf og fái sömu laun fyrir sömu vinnu. Nefndirnar vinna að ýmsum sérmálum kvenna, s.s. fæðingarorlofi, veikindafríum vegna blæðinga o.fl.
4. Unnið er að uppbyggingu dagvistunarstofnanna við vinnustaði, mötuneyta, þvottahúsa o.fl. og heimilishald þannig að hluta gert að samfélagslegri þjónustu.

Þótt kvennabaráttan beinist alls ekki að karlmanninNákvæmari frásagnir um konur í Kína eru væntanlegar í Verkalýðsblaðinu síðar. Hafi lesendur einhverjar spurningar varðandi stöðu kvenna í Kína,þá ættu þeir að senda Verkalýðsblaðinu þær.

-Kínafari-

# Fjársvik leigumiðlana

## — og barátta

## Leigjendasamtakanna gegn þeim

LEIGUMIÐLANASVINDLIÐ

Í skjóli þess að engar reglur eru til um þessi mál, hefur á undanförnum árum skotið upp kollinum starfsemi, sem varla verður öðru nafni nefnd en bein glæpastarfsemi. Er þar átt við hinar ýmsu leigumiðlanir, sem hafa notfært sér húsnæðisskort og ringulreið í leigumálum til að auðga sjálfa sig með prettum og svikum. Jón frá Pálmholti, formaður Leigjendasamtakanna, ritaði um þetta ágæta grein í dagblöð fyrir skömmu. Við höfðum samband við skrifstofu Leigjendasamtakanna til að spyrjast nánar fyrir um þessi mál. Starfsmaður samtakanna, Einar Ólafssom, veitti okkur fúslega upplýsingar og kvað aragrúa dæma vera til um vísvitaða fjársvikastarfsemi allflestra leigumiðlana hér í borg. Algengt væri að fólk væri látið greiða miðlunum tugi



þúsunda, væri boðið húsnæði, en síðan svikið,án þess að leigumiðlanirnar létu nokkuð af því vita. Fólk stæði því skyndilega uppi húsnæðislaust eftir að hafa treyst á að fá ákveðið húsnæði á ákveðnum degi. Dæmi um slíkt eru til frá flestöllum leigumiðlunum, Húsaskjól, Laugavegi 28, Njálsgötu 86, Mjóuhlíð 2 o.fl. Einar sagði að það væri aðeins ein leigumiðlun, sem honum væri ekki kunnugt um að kvartað hefði verið yfir. Það væri leigumiðlun Svölu Nielsen í Kópavogi.

Eitt dæmi sagði Einar okkur, sem okkur þótti sýnu verst þeirra dæma, sem hann hafði. Kona nokkur fór til leigumiðlunarinnar Húsaskjóls á Vesturgötu, sem rekin er af Þóroddi nokkrum Stefánssyni, en hefur nú verið lokað. Hún fékk íbúð þar, undirritaði leigusamning á skrifstofunni og greiddi 135 þús. kr. í fyrirframgreiðslu og fékk kvittun fyrir, undirritaða af Þóroddi. Síðan fékk hún lykil og flutti inn, að vonum sæl með þessi málalok. 10 þús. kr. var hún þá búin að greiða leigumiðluninni fyrir þjónustuna. Nokkrum dögum síðar fær hún heimsókn af eigenda íbúðarinnar. Hann hefur þá ekkert fengið að vita og enga peninga séð. Liggur nú fyrir að konan verði að flytja út úr íbúðinni bótalaust. Ekki hefur henni né öðrum tekist að ná í Þórodd Stefánsson. Leigjendasamtökin hafa ekki ákveðið, hvað gert verður í þessu máli, en ljóst er að hér hljóta einhver lög að ná yfir. Þetta eru hrein fjársvik.

LEIGJENDASAMTÖKIN

Leigjendasamtökin hafa opna skrifstofu með þjónustu við leigjendur og leigumiðlun. Einar Ólafsson kvað mjög mikið um að fólk leitaði aðstoðar skrifstofunnar. T.d. væri algengt, að fólk bæði um aðstoð vegna þess að húseigendur snarhækkuðu húsaleigu. Hækkun húsaleigu er hins vegar bönnuð, því að hún fellur undir verðstöðvunarlög. En fæstir húseigendur taka nokkurt mark á því, enda er enginn opinber aðili, sem fylgist með því. Það er því ljóst, að skrifstofa Leigjendasamtakanna vinnur jákvætt og þarft verk með því að aðstoða fólk gegn slíku. Vandinn er bara sá, að fæstir leigjendur þora að leita réttar síns af ótta við að verða sagt upp húsnæði sínu.

Skrifstofa samtakanna er að Bókhlöðustíg 7, og er opin kl. 1 - 5 alla daga. Þar geta menn einnig gerst félagar í samtökunum með því að greiða 5.000 króna árgjald. Allir sem ekki hafa hagnað af útleigu húsnæðis geta orðið félagar. Samtökin hafa mikla þörf fyrir að auka fjölda félaga, bæði til að rétta við fjárhaginn, en hann er mjög bágborinn. Ríkisvaldið hefur nýlega styrkt samtökin með 200.000 krónum, en það dugir skammt. Þess ber þó að geta, að vænst er fjárstuðnings tveggja aðila, þ.e. Reykjavíkurborgar og Alþýðusambandsins. Um upphæð þess stuðnings er ekki vitað.

## ir við starfsfólk

menn) höfðu líka valdamikla embættismenn sem allir - allir - voru sömu skoðunar og þeir. .... Nú verðum við borgarfulltrúarnir að þæfa þetta allt í þrem borgarmálaráðum flokka okkar, og nudda síðan embættismönnunum til að framkvæma niðurstöðuna. .... Nú kynni einhver að segja : Er manneskjan að halda því fram að embættismenn borgarinnar sitji á svikráðum við borgarstjórn ? Auðvitað ekki. Flestir þeirra basla áfram eins og þeir hafa alltaf gert, margir af samviskusemi, en einmitt eins og þeir hafa alltaf gert. Og það er vandinn."

"HINIR VINSTRI FLOKKARNIR ERU VONDIR"

" Ég hygg, að Alþýðubandalagið hafi þar nokkuð mótaðar hugmyndir, en það er ekki nóg. Við verðum að finna sameiginlega leið með tveimur öðrum stjórnmálaflokkum."

ÍSAFJÖRÐUR

frh. af forsíðu

Eins og frá var sagt lyktaði viðskiptum Hallgríms og bæjarstjórnarinnar þannig, að hann var beðinn að hætta strax um áramót, enda þótt uppsagnarfresturinn væri til 11.maí. Starfið var síðan auglýst með umsóknarfresti til 15. janúar með þeim árangri að engin umsókn barst.

Þá voru góð ráð dýr. Þeir háu herrar sömdu nefnilega við verkfræðistofu Sigurðar Thoroddsen að annast störf Hallgríms næstu 6 mánuði. Því miður er ekki hægt að upplýsa nákvæmlega hvað ævintýrið muni kosta. Verkfræðistofna selur klukkutímann almennt á 1,584% af mánaðarlaunum viðkomandi starfsmanns, sem jafngildir 2.56% sinnum tímakaup það sem hann fær greitt (ef 16o vinnustundir eru í mánuðinum) Nokkur hluti þess mismunar fer í svonefnd launatengd gjöld, en hann er ærinn samt.

Eitt af deilumálum Hallgríms við bæjarstjórnina var að fá ráðinn nýjan tæknimenntaðan starfsmann við deildina, en það fékkst ekki. Með nýja fyrirkomulaginu lætur nærri, að bæjarsjóður verði að greiða sama verð fyrir vinnu eins manns frá Verkfræðistofunni og það hefði kostað að greiða Hallgrími laun sín ásamt 1 nýjum starfsmanni. Er þá gert ráð fyrir að bæjarsjóður greiði venjulegt verð fyrir þjónustu Verkfræðistofunnar, sem verður að teljast líklegt.

Reynslan mun væntanlega leiða sitthvað í ljós um ágæti þessara ráðstafana bæjaryfirvalda og bæjarbúar munu líklega draga af því einhvern lærdóm. Mál Hallgríms og bæjarstjórnarinnar hafa að vonum verið talsvert til umræðu manna á meðal á Ísafirði, en ekki hefur fréttst um neinar skipulegar aðgerðir enn.

Af Hallgrími er það helst að frétta, að hann stundar rækjuveiðar og lætur sæmilega af aflanum.

-fréttaritari





Lönd vilja sjálfstæði - þjóðir vilja frelsi - alþýðan vill byltingu

# Innrásin í Kampútseu: Víða mótmælt

## — en Þjóðviljinn þegir!

Um allan heim hefur innrás Víetnam í Kampútseu vakið mótmælaöldur. Það eru fáir sem styðja hana - og aðeins leppríki Sovétríkjanna hafa viðurkennt gerfistjórn Heng Samring. Sovétríkin og Víetnam hafa einangrast á alþjóðavettvangi samtímis því að stjórnarher Kampútseu sækir af afli gegn innrásarliðinu.

Hérlendis hefur innrásinni verið mótmælt af EIK(m-l), KFÍ/ML, Baráttuhreyfingu gegn heimsvaldastefnu (sjá annars staðar), Vísi og Morgunblaðinu. Benidikt Gröndal utanríkisráðherra hefur einnig mótmælt yfirgangi Víetnam.

Verkalýðsblaðið reyndi eftir megni að grenslast fyrir um afstöðu íslenskra flokka og hreyfinga til innrásarinnar.

Hjá Alþýðubandalaginu varð Adda Bára fyrir svörum. Hún sagði að bandalagið tæki ekki formlega afstöðu til utanríkisviðburða af þessu tagi - það væru margar skoðanir innan flokksins á þessu máli að hennar áliti og þess vegna ógerlegt að flokkurinn tæki afstöðu. Aðspurð um það hvort hugsanlegt væri að flokkurinn tæki þátt í eða styddi stuðningsnefnd sem starfaði undir kjörorðinu Víetnam út úr Kampútseu, sagði hún að Alþýðubandalagsfélag Reykjavíkur gæti kannski gert það. Kvaðst hún geta lagt það fyrir næsta stjórnarfund ABR.

Hjá Framsóknarflokknum var Atli Ásmundsson í forsvari. Hann sagði flokkinn hafa í mörgum nærtækari málum að snúast og væri engin afstaða til hjá flokknum til innrásarinnar. En Atli sagði að Framsóknarflokkurinn væri á móti öllu hernaðarbrölti. Hann sagði ennfremur að stjórn Félags ungra Framsóknarmanna myndi ef til vill ræða þetta mál á næstunni.

Baráttuhreyfingin gegn heimsvaldastefnu var rétt nýbúin að senda frá sér mótmælaályktun þegar Verkalýðsblaðið hafði samband við Örn Ólafsson formann. Um mögulega aðild eða stuðning við baráttunefnd sem berðist fyrir stuðningi við Kampútseumenn gegn Víetnam sagði Örn að hann gæti ekkert séð því til fyrirstöðu að BGH tæki þátt í slíku starfi. En hann kvaðst ekki geta tekið afstöðu til kröfunnar að Sovétríkin hyrfu burt frá Indókína þar sem hann hefði engar sannanir fyrir veru þeirra þar.

**ÞJÓÐVILJINN TEKUR EKKI AFSTÖÐU GEGN INNRÁSINNI.**

Það hefur vakið nokkra athygli að Þjóðviljinn - eina íslenska dagblaðið sem lætur þess sérstaklega getið að það sé málsvari þjóðfrelsis - hefur ekki tekið afstöðu gegn innrás Víetnam. Í stað þess hefur Árni Bergmann, ritstjóri velt fyrir sér mögulegum góðum hliðum á innrásinni. Þjóðviljinn hefur mótað afstöðu sína út frá hatursáróðri sem dunið hefur á Kampútseu undanfarin ár - og er upprunninn hjá CIA en hefur fengið framhaldslíf í áróðri sovésku heimsvaldasinnanna, sem eins og kunnugt er styðja dyggilega við bakið á innrásarher Víetnam.

**MIKILVÆGT AÐ STYÐJA BARÁTTU KAMPÚTSEU.**

Mótmæli gegn innrásinni eru mikilvægur liður í því að snúa almenningsálitinu gegn framferði Víetnama og Kremlarherranna. Stuðningsstarf í formi upplýsingadreifingar, baráttufunda ofl. hefur nú víða hafist. Sem dæmi má nefna að í Svíþjóð hefur gamla Víetnamhreyfingin svo til öll lýst yfir stuðningi við Kampútseu - þ. á. m. allir fyrrverandi formenn hennar. Mikið stuðningsstarf er hafið þar í landi og einnig í Noregi. Hér á landi hefur ekkert skipulagt stuðningsstarf hafist ennþá.

# Stjórnarher Kampútseu sækir gegn innrásarher Víetnama




Hugmyndir vestrænna fréttamanna og falsfréttir Víetnama um undanhald og hrun stjórnarhersins í Kampútseu hafa ekki við nein rök að styðjast. 11. janúar lýsti stjórn Pol Pots því yfir að her Kampútseu væri í fullu fjöri og hefði hafið gagnsókn. Atburðir síðustu daga hafa staðfest þessa yfirlýsingu.

Á kortinu eru merkt helstu bardagasvæði undanfarna daga, víetnamska hernámsliðið fær ekki stundlegan frið. Birgðaflutningar víetnamska liðsins verða stöðugt fyrir árásum - og víða hafa þeir orðið að hörfa. Allur suðvestur-hluti landsins er nú á valdi stjórnarhersins í allt að 20 km. fjarlægð frá Phnom Penh. Hernaðarlist Kampútseumanna felst í því að hörfa undan þegar þungvopnaðar sveitir Víetnama æða yfir - en ráðast síðan gegn þeim frá hlið og einangra hersveitirnar og umkringja.

Mistök vestrænna fréttamanna fólust í því að álíta hið skipulagða undanhald vera flótta. En eins og Ieng Sary, utanríkisráðherra Kampútseu, sagði á blaðamannafundi í Beijing (Peking) þá víkja allir viti bornir menn fyrir skriðdrekum - en það er ekki það sama og flýja í skelfingu. Í dag ráða Víetnamar helstu borgum landsins og flestum aðalvegum - en þeim hefur mistekist að lama stjórnarherinn sem nú ræður sveitunum að mestu. Í yfirlýsingu Pol Pot-stjórnarinnar þann 11. janúar segir: "Baráttan breiðist nú um allt landið. Hún er háð af meira afli en baráttan í upphafi fimmárastríðsins (þ.e. baráttunni gegn Lon Nol og USA /aths. Verkalýðsblaðsins)."

Alþýða Kampútseu hefur því ekki sagt síðasta orðið við innrásarliðið.

# Baráttan heldur áfram í Eritreu



Þjóðfrelsisliðar Erítreu.

Síðastliðið ár var mjög viðburðaríkt í Erítreu. Á árinu varð erítreíska frelsisbaráttan fyrir sínu mesta áfalli í 18 ára langri sögu vopnaðrar baráttu í Erítreu. Mörg mikilvæg landsvæði og bæir voru hertekin á ný af Eþíópíu, hundruð þúsunda bættust í hóp flóttamanna og erfiðleikar og neyð óbreyttra íbúa Erítreu jukust um allan helming vegna sífelldra sprengjuárása á bæi og sveitir.

Árið 1977 var hápunktur baráttunnar. 98% landsins voru frelsuð, tvær stærstu frelsishreyfingarnar hófu sameiningarviðræður og tóku að samhæfa baráttu sína, og frelsisherir þeirra áttu í fullu tré við heri Eþíópíu. Hvað olli þá þessari umskiptingu? Um mitt sumar hófu Sovétríkin opinskátt beinan stuðning við fasistastjórnina í Eþíópíu og dældu vopnum inn í landið. Það er ljóst að hefði stuðningur Sovétríkjanna við Eþíópíu ekki komið til, hefði Eþíópíuher aldrei tekist að ná aftur frelsuðu svæðunum.

Þá væri fullur sigur í frelsisbaráttunni ekki langt undan. Hið rétta eðli Sovétríkjanna afhjúpaðist fullkomlega í Norðaustur-Afríku í sumar.

En baráttunni er ekki lokið! Frelsishreyfingarnar undirbúa nýjar aðgerðir, skærum og stærri árásum er haldið uppi á bækistöðvar hers Eþíópíu og gerðar þungar búsifjar.

Fréttamenn sem ferðast hafa nýlega um Erítreu hafa allir þá sögu að segja, að meðal fólksins ríki mikil bjartsýni og baráttuhugur. "Þó að baráttan standi í önnur 18 ár, þá munum við sigra, og frjáls og óháð Erítrea mun sjá dagsins ljós". Þetta viðhorf er ríkjandi.



# BGH mótmælir innrás Víetnam

Baráttuhreyfing gegn heimsvaldastefnu lýsir yfir andstöðu sinni við innrás víetnamska hersins í Kampútseu. BGH tekur að svo stöddu ekki afstöðu til stjórnarfars í Kampútseu undanfarin ár, en getur ekki tekið alvarlega þá fullyrðingu að innlend andstöðuhreyfing, sem stofnuð var í árslok 1978 hafi náð þvílíkum ítökum meðal þjóðarinnar, að hún hafi steypt stjórn Pol Pot.

BGH telur að innrás erlendra aðilja sé síst til þess fallin að efla sósíalisma eða lýðræði í landinu. Þvert á móti eykur þessi sundrung þjóðfrelsisafla Indókína hættuna á nýrri íhlutun heimsvaldasinnaðra ríkja.

BGH krefst þess að allt víetnamskt herlið yfirgefi Kampútseu.

27.1. 1979 f.h. BGH
Örn Ólafsson formaður.

# Samstarf um dagvistunarmál í uppsiglingu

## -viðtal við Nönnu Mjöll Atladóttur í stjórn 8.mars-hreyfingarinnar.



Nanna Mjöll Atladóttir.

Á liðsfundi 8. mars-hreyfingarinnar sem haldinn var 20. jan. s.l. var ákveðið að 8. mars-hreyfingin leitaði eftir samstarfi sem flestra aðila um dagvistarmál. Komu fram ýmsar hugmyndir um hvað hægt væri að gera, m.a. söfnun undirskrifta undir kröfur um bætt ástand dagvistarmála. Verkalýðsblaðið sneri sér til Nönnu Mjallar Atladóttur, sem á sæti í stjórn 8. mars-hreyfingarinnar, og bað hana að segja lesendum blaðsins hvernig hefði miðað og hvað væri á döfinni hjá hreyfingunni.

**BRÉF TIL 65 SAMTAKA**

– Það er þá fyrst að nefna að strax tveim dögum eftir liðsfundinn sendum við út bréf til um 65 aðila, – kvennasamtaka, stéttarfélaga, íbúasamtaka, skólafélaga og ýmissa annarra hagsmunafélaga. Í þessu bréfi bentum við á nauðsyn þess að sameina sem flesta til aðgerða sem sýndu hug og vilja almennings í þessu máli. Við nefndum einnig það álit okkar að dagvistarmál væru eitt brýnasta hagsmunamál kvenna og raunar alls vinnandi fólks. Um ástandið í dagvistarmálum segir orðrétt í bréfinu : "Dagvistarmál hafa verið æ meira til umræðu síðast liðin ár. Veldur þar mestu að opinberir aðilar hafa ekki komið nægilega til móts við þörf vinnandi fólks fyrir nýjar dagvistarstofnanir, fleiri dagvistarpláss og betri aðbúnað þeirra dagvistarstofnana sem fyrir hendi eru." Í bréfinu buðum við öllum þessum samtökum til samstarfs og báðum þau að senda 1-2 fulltrúa á óformlegan viðræðufund.

**GÓÐUR FUNDUR, – EN FÁMENNUR**

– Sá fundur var 1. febr. Þar mættu fulltrúar fóstrunema, Rauðsokka og Iðnnemasambandsins. Þetta var góður fundur þótt auðvitað hefði verið betra ef fleiri hefðu komið. Líklega er ein ástæðan sú að fresturinn var stuttur. Við ákváðum að halda annan fund eftir viku. Þangað til ætlum við að hafa samband við þau samtök sem fengu frá okkur bréf, til að athuga hvort ekki sé áhugi fyrir þessu málefni.

Á fundinum ætlum við að halda áfram að ræða mögulegar aðgerðir og kjósa einhvers konar samstarfsnefnd.

**UNDIRBÚNINGUR 8. MARS HELDUR ÁFRAM**

– Við ætlum okkur að gera ýmislegt fleira en að koma af stað þessu samstarfi um dagvistarmál. Við verðum þó að passa okkur á því að dreifa ekki kröftunum of mikið. Á síðasta liðsfundi voru stofnaðir 2 starfshópar, einn til að undirbúa aðgerðir 8. mars, hinn til að sjá um dreifingu þess efnis sem hreyfingin hefur gefið út. 2 liðsfundi eigum við eftir að halda. Sá fyrri verður 8. febrúar, en sá síðari verður 1. mars. Þeir hefjast báðir kl. 20.30 og höfum við fengið Sóknarsalinn að Freyjugötu 27 leigðan. Þar verður nánar ákveðið um aðgerðir 8. mars og starfið þangað til.

**SAMSTARF VIÐ RAUÐSOKKA?**

– Við höfum ekki haft frumkvæði að öðru samstarfi við Rauðsokkahreyfinguna en að bjóða þeim þátttöku í samstarfinu um dagvistarmálin . Hins vegar fengum við nýlega frá þeim bréf með samstarfstilboði um aðgerðir 8. mars. Þær verði helgaðar börnum og stöðu þeirra í íslensku auðvaldsþjóðfélagi og áhersla lögð á kröfur um nægilegt dagvistarými fyrir öll börn og ódýr og góð barnaheimili. Við erum boðuð til fundar við Rauðsokka 6. febrúar, og ættum því að geta borið fréttir af þeim fundi á næsta liðsfundi.

– Ég vil að lokum hvetja alla sem hafa áhuga á kvennabaráttunni almennt og þá sem vilja berjast fyrir úrbtum í dagvistarmálum að taka þátt í 8. mars-hreyfingunni og í þeim aðgerðum sem dagvistarsamstarfið leiðir af sér.

# Samtíningur

Vísitöluþakið var tekið af starfsfólki Félagsmálastofnunar eins og öðrum borgarstarfsmönnum um áramótin. Laun ritaranna hækkuðu við það um kr. 7.- sjö krónur –, en laun Félagsmálastjóra Reykjavíkur hækkuðu um kr. 50.000,-.

...............

Ólafur Ragnar Grímsson velur orð sín vel. Í viðtali við Þjóðviljann 3.sept. 1978 segir hann um fyrsta af fjórum meginvandamálum næstu ára: "Í fyrsta lagi eru tengsl flokks og verkalýðshreyfingar og á hvern hátt hin stjórnmálalegu verkefni flokksins tengjast þeirri stéttabaráttu sem verkalýðshreyfingin heyr við atvinnurekendur og þjónustumenn þeirra innan kerfis ríkisvaldsins." Flokkurinn er auðvitað Alþýðubandalagið. Það er erfitt fyrir þá sem ekki sjá Ólafssýn, að sjá í hverju stéttabarátta Alþýðubandalags <u>við</u> atvinnurekendur og þjónustumenn þ eirra er fólgin. Hinsvegar er auðvelt að sjá í hverju stéttabarátta AB <u>með</u> atvinnurekendum og þjónustumönnum þeirra er fólgin. Alþýðubandalagið og lið þess í verkalýðsforystunni tekur höndum saman við auðvaldið á Íslandi í stéttabaráttunni gegn launahækkunum vinnandi fólks. Gróði auðvaldsins skal óskertur vera. Auðvitað hefði Ólafur Ragnar átt að segja <u>með</u> en ekki <u>við</u> í Þjóðviljaviðtalinu til þess að vera sannleikanum samkvæmur.

# „Svavar..."

frh.af forsíðu

Og þessi flokkur, sem gefur sig út fyrir að vera sósíalískan, skilur mjög lítið eðli heimsvaldastefnunnar. Reynslan sýnir þetta.

En kjarni málsins er auðvitað sá, að sendimenn sjóðsins láta aldrei frá sér fara tilmæli í beinu formi. Ef einhver ætlaði sér að finna plagg frá sjóðnum sem innihéldi bein fyrirmæli til ríkis, þá er fyrirfram hægt að segja að slíkt er hreint ekki til. Þetta eru ætíð kallaðir "persónulegir punktar" með "úttekt" eða "umsögn" um viðkomandi mál. Þess er jafnan gætt að ekki sé hægt að hanka sjóðinn með því að benda á skjalfest tilmæli. Jafnvel er algengt að slíkar "umsagnir"séu munnlegar og hafa samt sín áhrif.

Engu máli skiptir hvort "punktarnir" eru skrifaðir á fínasta skjalapappír eða umbúðapappír. Aðalatriðið er að hér er um að ræða plögg sem varða efnahagsmál á <u>Íslandi</u>. Og slíkt kemur öllum almenningi við og menn eiga heimtingu á því að fá þessa og álíka pappíra á borðið, sagði Elías Davíðsson.

Að lokum má geta þess, að sagt er að síðasta "umsögn" Alþjóða gjaldeyrissjóðsins sé stíluð á Tómas Árnason, fjármálaráðherra. En það gerir opinbera birtingu ekki óheimila, né aðra stjórnmálamenn "stikkfría". Tómas fær ekki skýrsluna sem einkaaðili, heldur sem <u>fjármálaráðherra</u>. Sem slíkur hefur hann skyldur gagnvart þingi og þjóð, skyldur sem hann gegnir ekki nema hann sé knúinn til þess. Sama gildir um aðra ráðherra og fleiri aðila í þagnarbandalagi sjóðsins. Ekkert kemur í veg fyrir að þeir geti lagt pappírana á borðið, nema skortur á viljanum til þess.

# Kók í Kína og Sovétríkjunum

Í síðasta tbl. Verkalýðsblaðsins birtist lesendabréf þar sem spurt var um sölu á Kókakóla í Kína. Í bréfinu er líka m.a. minnst á að drykkurinn hafi verið "notaður í áróðursskyni gegn sósíalisma Sovétríkjanna".

Kók hefur okkur vitandi ekki verið flutt inn til Sovétríkjanna. Hinsvegar stendur til að gera það í sambandi við Ólympíuleikana í Moskvu 1980. Þar hefur Kókakóla-samsteypan haft yfirburði yfir Pepsíkóla, sem flutt hefur verið inn til Sovéríkjanna um árabil. Kókakóla náði samningum við sovésku Ólympíunefndina um einkaleyfi á sölu Kók og Fanta á leikunum. Eftir leikana verður aðeins Fanta selt á sovéskum markaði. Í samningunum er gert ráð fyrir að Kókakóla byggi stórar átöppunarverksmiðju í Sovétríkjunum fyrir eigin reikning og rekstur og sjái um markaðsdreifingu á Fanta eftir leikana. Pepsíkóla hefur hins vegar einkaleyfi á markaðsdreifingu kóladrykkja í Sovétríkjunum.

Bæði þessi risafyrirtæki eru þannig komin með sterka stöðu á sovéskum markaði, jafnvel einokunaraðstöðu og virka þar sem þeir einokunarauðhringir, sem þeir eru. Okkur þætti gaman að sjá hvernig hagfræðingar endurskoðunarsinna, t.d. trotskíista, fara að því að skilgreina gróða Kók og Pepsí, sem "sósíalískan gróða".

Samkvæmt því sem við vitum um sölu á Kók til Kína er um lítið magn að ræða og sala bundin skilyrðum Kínverja sjálfra. Kókakóla-samsteypan er þannig ekki inni á kínverskum markaði á sama hátt og í Sovétríkjunum.

Kínverjar framleiða ekki kóladrykki sjálfir og gosdrykkjaframleiðsla þeirra er ennþá lágþróuð. Með samningi við erlenda aðila um framleiðslu ákveðinna vörutegunda geta Kínverjar flutt inn erlenda tækniþekkingu og þar þróað eigin iðnað örar en ella. Þetta er í fullu samræmi við stefnu Kínverskra kommúnista um að flýta iðnþróuninni með því að læra af tækni annarra þjóða. Þá stefnu setti Mao Zedong fram. Henni er haldið á lofti núna eftir að eyðileggingarstefna "fjórmenninganna" hefur verið brotin á bak aftur, en stefna þeirra afneitaði þekkingaröflun frá útlöndum.

Það er rétt að sala á Pepsí í Sovétríkjunum hefur verið notuð sem röksemd gegn því sem Kremlarherrar kalla sósíalisma. Það skal viðurkennt hér að notkun röksemdarinnar var fjarska yfirborðskennd, þó röksemdin væri ekki röng. Við teljum að þegar risaauðhringir á borð við Pepsíkóla (og þeir eru fleiri) fá að leika lausum hala á sovéska markaðinum, þá sé það dæmi um að sá markaður er ekki lengur sósíalískur og að hagkerfið sé ekki lengur sósíalískt. Við notuðum þetta sem eitt dæmi af mörgum, en við gerðum það illa og flausturlega.

Það er okkur ljóst og Kínverjum sjálfsagt líka að drykkurinn Kók hefur, sem slíkur, engin áhrif á afstöðu manna. Hvorki íslenskur né kínverskur kommúnisti verður minni kommúnisti af því að dreypa á einum sopa, jafnvel heilli flösku. Svo mikið er víst.

SKATTAFRAMTAL frh.af bls.4.

tekjuskatti skv. 52. gr. skattalaganna."

Við erum engu nær.

Þá er klukkan orðin þrjú. Við erum orðin grútsyfjuð, en erum örlitlu nær um það, hvernig þessi þáttur arðráns auðvaldsins á venjulegu fólki fer fram. Og það er þó nokkuð.

<u>Finnur.</u>

<u>ES-1.</u> 31. jan. : Áður en ég skilaði framtalinu hringdi ég í skattinn og fékk að vita að takmörkunarútsvarið kæmi mér ekkert við. Það væri einkum hugsað fyrir einstaklinga með einkarekstur, sem ákvæðu sjálfum sér laun, og væri ætlað til að koma í veg fyrir að þeir slyppu við skatta með því að gefa upp óeðlilega lág laun á sjálfa sig. Varðandi tekjur sem væru undanþegnar skv. 6. gr. .... o.s.frv., gat stúlkan ekki sagt mér hvað væri.

<u>ES-2.</u> 31. jan. Ég rakst af tilviljun á annað í leiðbeiningunum, nefnilega að 50% frádrátturinn vegna launa eiginkonu gilti aðeins ef um lögformlegt hjónaband væri að ræða. Við erum ekki gift nema af hvoru öðru, svo þarna töpum við af dógóðri upphæð, og það borgar sig alls ekki að við teljum fram saman. Við verðum því að byrja upp á nýtt.

<u>Finnur.</u>

# Bókaverði..

frh.af baksíðu

anna hefur verið þannig háttað, að annar þeirra er fastráðinn, en hinn – sá sem nú hefur verið rekinn þurfti að skila vinnunótum mánaðarlega og fékk þær greiddar eftir á. Atvinnuöryggi var því ekkert. KHÍ hefur undanfarin fjögur ár oftlega farið fram á að hann yrði fastráðinn, vegna brýnnar þarfar að auka starfslið safnsins og vegna þess að viðkomandi bókavörður hefur fengið hin bestu meðmæli skólayfirvalda. Um áramótin 1977-78 var gerður samningur til eins árs, en sl. áramót var hann tekinn burt af launaskrá, sem áður segir.

Bæði kennarar og nemendur hafa haldið fundi um málið og samþykkt kröftug mótmæli gegn þessum kreppuráðstöfunum ríkisvaldsins og krafist þess að uppsögnin verði dregin til baka, því hún leiðir ekki til neins annars en lakari menntunar kennaraefna og einhæfari.

Auk uppsagnarinnar hefur KHÍ borist plagg frá fjármálaráðuneytinu þar sem starf æfingastjóra er strikað út af launaskrá. Þótt ekki hafi verið tekin nein endanleg afstaða enn um það mál, sýnir það þó ásamt öðru hvaða augum ríkisvaldið lítur kennaramenntunina.

Meðal kennaranema ríkir nú baráttuandi, baráttuleiðin hefur verið valin, funda- og samningamakki kastað fyrir borð. Við krefjumst fastráðningar bókavarðarins sem sagt var upp! Lesendur í KHÍ


# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-leninista)

Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á giró 12200-9

ÁBM: ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 3000
1/2 árs áskrift: kr. 1750
Til útlanda: kr. 5500
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30 Pósthólf 5186,
Reykjavík, sími: 29212



## Óánægja með starfsaðferðir forystunnar

# Sóknarkonur búast til baráttu

Sögulegur félagsfundur var haldinn í Starfsmannafélaginu Sókn 25. janúar, en stór hópur fundarmanna gekk þar á dyr á meðan fundur stóð yfir í mótmælaskyni við frjálslega fundarstjórn Aðalheiðar Bjarnfreðsdóttur Sóknarformanns. Hluti hópsins sem út gekk, sendi dagblöðum til birtingar greinargerð um málið, þar sem rakin voru nokkur dæmi um brot á fundarsköpum og ákveðnar kröfur settar fram um framkvæmd félagsfunda í Sókn. Í sumum blaðanna birtust viðtöl við Aðalheiði af þessu tilefni, þar sem hún bar allt af sér og gerði lítið úr útgönguhópnum. Í Alþýðublaðinu sagði hún t.d., að það sem fram kæmi í fyrrnefndri greinargerð, "væru helber ósannindi. Reyndar kæmi það sér ekki á óvart, því þær stúlkur sem að þessu stæðu væru lengi búnar að skrifa um sig róg í Verkalýðsblaðinu".

Þá sagði Aðalheiður ennfremur í Alþýðublaðinu:

"Stór hluti sem að þessum ólátum stóð á fundinum, voru stúlkur sem við höfum aldrei séð áður á fundum hjá Sókn. Hins vegar mátti þekkja þetta fólk sem félaga í EIK (Einingarsamtök kommúnista) sem nokkrar stúlkur í Sókn höfðu safnað um sig".

Verkalýðsblaðið reyndi að ná sambandi við Aðalheiði Bjarnfreðsdóttur, rétt áður en blaðið fór í vinnslu, en þá var hún sögð á samningafundi. "Rödd" á skrifstofu Sóknar harðneitaði að segja nokkuð um félagsfundinn umrædda og neitaði að láta blaðinu í té upplýsingar um þær kjarakröfur sem samþykktar voru á fundinum! "Við höfum ekkert við ykkur að tala", sagði röddin og skellti á.

HLUTI AF SÓKNARKRÖFUM

Blaðið leitaði til félaga í Sókn um upplýsingar um kröfur félagsins, þar sem skrifstofan brást og fékk upp gefið um grunnkaupshækkanir samkvæmt kröfunum:

Kr. 162.000 á mánuði fyrstu 6 mánuði starfs. Kr. 168.815 fyrir 6-12 mánuði. 175.636 fyrir 1. árið þar á eftir, kr. 182.681 fyrir 2. árið, 182.936 fyrir 3. árið og 200.985 fyrir 5. árið. Eftir það kr. 207.984. Þá munu vera kröfur um vaktaálag í fastri krónutölu, breytingar á **orlofsdögum samkvæmt starfsaldri o.fl.**


Aðalheiður Bjarnfreðsdóttir.

AÐ FYLGJA KRÖFUM EFTIR

Í greinargerð Sóknarhópsins sem gekk út af fundinum segir m.a.:

"Ljóst er að talsverður þrýstingur verður á samninganefnd Sóknar um að ganga ekki lengra "a.m.k. en starfsstúlkurnar á Akranesi - sér í lagi þó, ef tillit er tekið til yfirlýsinga Aðalheiðar á s.l. félagsfundi um gott samband hennar við forystumennina í ASÍ og um að "samningsandinn væri hagstæður".

Þess vegna er það mikilvægt nú að Sóknarkonur veiti stjórn og samninganefnd strangt aðhald. Ekki má slá af kröfunum og samningarnir verða að vera í okkar höndum en ekki hjá forystumönnum ASÍ.

Við verðum að efla umræður í félaginu og á vinnustöðum um kröfurnar og um hvaða aðgerðir séu heppilegar. Við verðum að fylgjast vel með samningaviðræðunum og gera þá kröfu til stjórnar að hún boði til fundar strax og eitthvað fer að gerast í samningaviðræðunum.

Aðeins með virkri þátttöku allra félagsmanna og ströngu aðhaldi að stjórn og samninganefnd getum við náð sigri í þessari kjarabaráttu".

## Sigrún Huld:

# Engan afslátt á kröfunum!

-Mér finnst miður að þurfti að koma til þessara átaka, út af sjálfsögðum kröfum félagsmanna um málfrelsi á félagsfundum. En á meðan Aðalheiður Bjarnfreðsdóttir heldur til streitu þessum "einvaldsleik" sínum, þá heldur stríðið áfram.

Þetta sagði Sigrún Huld Þorgrímsdóttir, starfsmaður á Kópavogshæli, við VB, en hún var í hópi fundarmanna er gengu af síðasta félagsfundi í Sókn í mótmælaskyni við það að Aðalheiður sneið "fundarsköp" mjög við sitt hæfi.

-Hún kom í veg fyrir að tillögur væru bornar upp, sem gengu gegn tillögum stjórnarinnar. Ekki einu sinni mátti mæla fyrir tillögunum, hvað þá að kjósa um þær. Stjórnartillagan var borin upp í hasti og Aðalheiður lýsti hana samþykkta, en harðneitaði að láta telja atkvæði með og á móti. Þá var mælirinn fullur orðinn hjá mörgum og rúmlega 1/3 fundarmanna gekk á dyr.

Hvað segir þú um þær kjarakröfur sem Sókn samþykkti á þessum sögulega fundi?

-Ég styð þessar kröfur, en tek jafnframt fram að ekki má slá af þeim í samningunum og það verður að berjast fyrir hverjum þætti þeirra. Ef þær nást í gegn, þá er það góður áfangi. Mikilvægust er krafa um grunnkaupshækkun. Annars vil ég segja, að ég er ákaflega andvíg því ráðslagi Aðalheiðar, að fá menn frá ASÍ til að aðstoða sig við kröfugerðina. Ég er fullviss um að Sóknarfélagar vita langbest sjálfir hvar skórinn kreppir og gera kröfugerð samkvæmt því.


Sigrún Huld Þorgrímsdóttir.

Það heyrist víða, að lausn á launamálum Sóknarfélaga sé fyrst og fremst að fá með því að ganga í BSRB?

-Já, þessu er óspart hampað. En við komum aldrei til með að ná launajafnrétti sjálfkrafa með því að skipta um stéttarfélag, heldur með því að berjast fyrir því.
Núna er mikilvægast að reyna að fá sem almennasta virkni í Sókn fyrir kröfunum - án afsláttar! Við förum í verkfall ef með þarf. Akranes er fordæmið (ófaglært starfsfólk á sjúkrahúsi Akraness, brúaði hluta af launabilinu milli þess og opinberra starfsmanna fyrir sömu störf. Verkfall var boðað en samningar tókust áður en til þess kom. Aths. VB).
Ég er sannfærð um að hreyfingin á okkar kjaramálum nú, er fyrst og fremst að þakka glæsilegri baráttu félaganna á Akranesi.

## Kappræðufundur

4. Kappræðufundurinn í fundaröð EIK(m-l) verður n.k. 15.febrúar n.k.

Umræðuefni fundarins er um kvennabaráttuna. Andmælendur fulltrúa EIK(m-l) verða frá Rauðsokkahreyfingunni.

Fundurinn verður haldinn að Hótel Esju 2.hæð. fimmtudag 15.febrúar og hefst kl.20.

Fyrri kappræðufundir hafa verið bæði fjölsóttir og fjörugir. Mætum vel og tökum með okkur vini og vandamenn.

# Litið inn hjá Október

Niðurstöður úr OKTÓBER-söfnuninni liggja nú fyrir. Takmarkið var að safna 300.000 kr.fyrir 1.des. Því marki var ekki náð þar sem aðeins söfnuðust 226.330 kr. Að áætlunin skyldi ekki standast á sér ýmsar orsakir sem áður hafa verið raktar hér í blaðinu. Á heildina er ekki hægt að segja að illa hafi gengið á árinu,þar sem úr báðum söfnununum fengust 559.310 kr.

Stjórn Októberforlagsins þakkar velunnurum sínum þennan mikla stuðning.

Í viðtali við Verkalýðsblaðið segir fulltrúi Októberforlagsins að mikil söluaukning hafi orðið á árinu og að bókabúðinni hafi bæst talsverður bókakostur.Til þess að byggja upp stóran bókalager þarf mikla peninga og þess vegna gengur það starf hægar en skyldi.

- En hvað með Rauðliðann?

- Við stefnum að því að fjölga áskrifendum að tímaritinu um eitt hundrað á næstu tveim mánuðum. Þetta átak miðar að því að tryggja fjárhagsgrundvöll Rauðliðans en það er jú forsenda þess að við getum bætt tímaritið enn meira. Okkur vantar meiri umræðu og gagnrýni í ritið og Rauðliðinn þarf meiri útbreiðslu.

GERIST ÁSKRIFENDUR AÐ RAUÐLIÐANUM !

## Kennaraháskólinn:

# Bókaverði sagt upp í sparnaðarskyni

Verkalýðsblaðinu hefur borist bréf frá nokkrum lesendum sínum í Kennaraháskóla Íslands. Þar er sagt frá kreppuráðstöfunum í Kennaraháskóla Íslands og baráttu gegn þeim. Verkalýðsblaðið hefur fregnir af að búið sé að skipuleggja aðgerðir fram í tímann.

Á mánudag, 5.febr., verður haldið í menntamálaráðuneytið og fjármálaráðuneytið og þau bæði tekin. Fyrir því standa nemendur. Munu þeir þar hafa uppi kröfur, sem verið er að ræða og móta meðal nemendanna. Daginn eftir verður blaðamannafundur nemenda og kennara um fjárhagsástand skólans almennt. Á miðvikudeginum verður síðan fjölmennt á þingpalla.

Bréfið frá lesendunum í Kennaraháskólanum hljóðar svo:

"Kreppa auðvaldsins bitnar ekki síður á kennaranemum en öðrum. Sífellt fer vaxandi að ekki er ráðið í kennarastöður, skólabygging er stöðvuð o.s.frv. Í dag er hins vegar gripið til enn harkalegri aðgerða. Þær stöður sem fyrir hendi eru skornar niður. Bókavörður sem hér hefur verið lausráðinn var tekinn af launaskrá sl. áramót, sem jafngildir einfaldlega brottrekstri.

Undanfarin fimm ár hafa tveir bókaverðir starfað við bókasafn skólans, og ekki veitt af, þar sem bókasafnið er þungamiðja alls bóklegs náms í skólanum. Ráðningu bókavarð-

frh. á bls.7.